Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

18. tölublað. Þriðjudagur 8 maí 1979 8. árgangur Verð kr. 150



# Sigur fyrir launafólk
# Samkomulagið kolfellt

Opinberir starfsmenn hafa kolfellt samkomulag stjórnar og samninganefndar BSRB við ríkisstjórnina.

Um það bil 70% sögðu nei.

Þessi niðurstaða er viðvörun til forystumanna BSRB og mótmæli gegn þeirri stefnu ríkisstjórnarinnar að lækka verðbólgu með því að lækka kaupið.

### Hvað táknar niðurstaðan?

Þessi niðurstaða táknar að opinberir starfsmenn mótmæla þeirri stefnu ríkisstjórnarinnar að laun séu orsök verðbólgu og þess vegna líka því að lækka kaupið til að minnka verðbólgu.

Úrslitin sýna einnig sv ekki verður um villst að forysta opinberra starfsmanna er gersamlega úr tengslum við hinn almenna félagsmann í BSRB.

Þetta er einangruð forysta [illegible] sem reynir ekki að kynna sér skoðanir félagsmannanna en heldur að hægt sé að láta fjöldann hlýða í blindni.

Síðast en ekki síst táknar niðurstaða atkvæðagreiðslunnar að skorið er á stéttasamvinnunetið sem forysta allra stærstu stéttarfélaganna er flækt í.

### Viðbrögð forystu BSRB

Formaður BSRB er heldur kokhraustur að lokinni talningu atkvæðanna. Hann viðurkennir ekki að forystan hafi haft á röngu að standa í þessu máli og sé úr tengslum við opinbera starfsmenn.

Þvert á móti skellir hann skuldinni á ríkisstjórnina og kennir því um að vöruverðshækkanir hafi dunið yfir rétt fyrir atkvæðagreiðsluna.

Það felst eiginlega í orðum formannsins að réttara hefði verið að bíða með að tilkynna þessar hækkanir þar til að atkvæðagreiðslunni lokinni.

Þá má líka heyra það á ummælum hans að honum finnst það miður að samkomulagið var ekki samþykkt. Það lofar ekki góðu um það hvort forysta BSRB ætlar í alvöru að taka mark á áliti umbjóðenda sinna eða hvort bara er um að ræða "samráð" af sama tagi og ríkisstjórnin iðkar.

### Hvað næst?



Hluti af hóp þeim er kallaði sig Andóf 79. Sá mikilvægi árangur sem hópur þessi náði í baráttunni fyrir því að fella samkomulag það sem forysta BSRB og ríkisstjórnarinnar voru búnir að koma sér saman um, verður seint metinn. Það er rétt í anda hinna svokölluðu verkalýðsflokka að halda að þeir geti selt verkalýðshreyfingunni verkfallsréttinn. Óhætt er að fullyrða að allar götur hefur verkalýðshreyfingin orðið að berjast fyrir því að ná honum og svo verður meðan er við lýði þjóðskipulag arðráns og kúgunar.

Svavar Gestsson viðskiptaráðherra hefur látið hafa það eftir sér varðandi úrslit samkomulagsins, að ekki sjá hann eftir 3% til opinberra starfsmanna, en honum þyki miður að þeir skildu ekki þiggja samningsréttinn sem hann ætlaði sér að færa þeim á silfurfati. En honum til hugarhægðar skal h[illegible]m bennt á að honum er meir en velkomið að bera þessa kröfu upp á þingi og berjast fyrir framgangi hennar.

Eða finnst honum það kannski fullmikið, að þeir fái bæði 3% og verkfallsrétt.

Nú er það brýnasta og nærtækasta verkefni opinberra starfsmanna, hvar í flokki sem þeir standa, að styrkja samtökin til að takast á við verkefni framtíðarinnar. Næsta skrefið er að fá fullan og óskoraðan samningsrétt og vinna aftur kjaraskerðingu fyrrverandi og núverandi ríkisstjórna.




# 1.maí Reykjavík

Eins og kunnugt er náðist samstaða með tveimur hinna róttæku hreyfinga sem staðið hafa fyrir sér aðgerðum á 1. maí undanfarin ár. Kusu fulltrúar hreyfingarinnar að nefna samstarfið Sameining gegn kjaraskerðingu 1. maí.

Sameining þessi stóð fyrir kröfugöngu, innifundi og kvöldfagnaði.

Það má segja að heldur hafi blásið byrlega því hvassviðri var þennan 1. maí og óvenju kalt. Þetta áhlaup "veðurguðanna" varð til þess að mjög lítil þátttaka varð í kröfugöngum og útifundum og var sama upp á teningnum í öllum göngum og fundum dagsins.

Hins vegar reyndist þátttakan á innifundi Sameiningar vera mun meiri en menn höfðu þorað að vona. Sýndi það ljóslega að fólk hafði mikinn áhuga á aðgerðum Sameiningar að um það bil helmingi fleiri komu á innifundinn en á útifundinn.

Kvöldfagnaðurinn tókst einnig ljómandi vel og var þar fullt út úr dyrum.

Ef litið er á þátttökuna í heild má því segja að aðstandendur Sameiningar megi vel við una.

## Harðir bardagar í Kamputseu

SJÁ BAKSÍÐU

## Öflugt Palestínustarf í Noregi

SJÁ SÍÐU 3.

# Bensínskattur þeirra ríku

Síðastliðinn laugardag hækkaði bensínlítrinn úr 205 krónum í 256. Gasolían og svartolían koma einnig til með að hækka að sama skapi þó með þeirri undantekningu að söluskattur verður felldur niður af þessum tegundum.

Þessar ofantaldar vörur hafa verið eitt vinsælasta efnið í nýjum verðreikningum ríkisins að undanförnu. Ríkisstjórnin hefur nefnilega verið svo ljónheppin að þessar vörur hafa hækkað stórlega á erlendum mörkuðum undanfarið. Nú mun sumum finnast um öfugmæli sé að ræða. Varla getur aukinn kostnaður ríkissjóðs verið þeim fagnaðarefni. Nei, ekki eitt og sér en þegar það hækkar aðrar tekjur ríkissjóðs enn þá meira eru þessir herrar ekki svo niðurbrotnir. Þarna hafa þeir fengið einfalda ástæðu til að hækka skatta án þess að þurfa að rökstyðja það öðruvísi en að þetta sé allt erlendum hækkunum að kenna. En er þessu þannig farið? Lítum nánar á málið.

Hér að neðan er tafla sem birtist í Þjóðviljanum 28. mars 1979. Fob-verð er verð vöru í landi seljanda án flutningsgjalds.

Við bættum við þessa töflu þremur dálkum, það er dálkunum "bensín kr./lítr.", "gasolía kr./lítr." og "svartolía kr./lítr.".

Það sem er athyglisvert við þessa töflu er nefnilega ekki aðeins að verðið erlendis er aðeins lítið brot af því sem það er

Framhald á síðu 2.

LEIÐARI

# Farmnnaverkfallið

Allt frá því núverandi ríkisstjórn tók við hefur hún unnið ötullega að því að skerða kjör vinnandi fólks og ganga á gerða samninga.

Efnahagsmarkmið ríkisstjórnarinnar hefur verið að ná verðbólgunni niður eins og það er kallað. Eina aðferðin sem ráðherrarnir hafa komið auga á til að beita gegn verðbólgunni er að lækka kaupið. Það þarf varla að minna á að fyrrverandi ríkisstjórn beitti sömu aðferðum.

Framan af valdaferli sínum lögðu ráðherrarnir einkum áherslu á að skerða vísitölubætur en nú er skerðing grunnkaups efst á óskalista þeirra. Það furðulegasta við þessar aðgerðir ríkisstjórnarinnar er að samtímis kaupráninu til að lækka verðbólgu gefa ráðherrar og aðrir aðstandendur stjórnarinnar út yfirlýsingar um að launin valdi alls ekki verðbólgu.

Ríkisstjórnarflokkarnir hafa notfært sér ítök sín í forystu stærstu stéttarfélaganna og flækt forystumenn launþega í samninga sem hafa það mark að halda niðri kaupinu.

Afar áríðandi er að losa launþegahreyfinguna úr þeim klafa baktjaldamakks sem búið er að flækja hana í.

Nú stendur yfir verkfall farmanna á kaupskipum. Atvinnurekendur hafa ásamt leppum sínum sýnt af sér óvenjulega ósvífni með verkbannsaðgerðum og með því að neita að ræða kröfur um kauphækkun.

Reynt er að gera verkfall farmanna óvinsælt með því að stimpla farmenn sem hátekjumenn. Sjómenn hafa hrakið tölur atvinnurekenda í fjölmiðlum og sýnt fram á að þær standast ekki. Kjör farmanna hafa verið skert eins og allra annarra launþega og þeir eiga því fullan rétt á því að þau séu bætt. Sama ótvíræða rétt eiga allir aðrir hópar vinnandi fólks.

Ríkisstjórnin hefur einnig gengið fram fyrir skjöldu og ráðherrar hafa haft í hótunum við farmenn. Ríkisstjórn in hefur með þessu enn einu sinni sýnt með hverjum hún stendur þegar um kjaradeilu er að ræða.

Við tökum undir með farmönnum og mótmælum afskipti ríkisstjórnarinnar af kjaradeilum.

# Samkomulagið kolfellt

Yfirgnæfandi meirihluti opinberra starfsmanna felldi samkomulag stjórnar og samninganefndar BSRB við ríkisstjórnina.

Opinberir starfsmenn hafa með þessu sýnt að þeir vilja ekki þurfa að kaupa sjálfsögð mannréttindi eins og verkfallsrétt.

Opinberir starfsmenn hafa einnig veitt forystumönnum sínum þá ráðningu sem þeir eiga skilið.

Úrslit kosninganna ættu líka að sýna ríkisstjórninni að opinberir starfsmenn sem og aðrir launþegar una því ekki að ráðsit sé á kaupið til að lækka verðbólguna. Það er öllum ljóst að kaupið er ekki verðbólguvaldur.

Það þarf ótrúlegan kjark og skammsýni til að túlka þessi úrslit sem sigur fyrir forystu BSRB. Úrslitin eru þörf áminning og viðvörun til forystumanna BSRB sem greinilega eru gersamlega einengraðir og úr tengslum við almenna félaga. Forysta BSRB verður nú að sýna það í verki að hún sé þess virði að hún sé studd áfram.

Verkefni opinberra starfsmanna eru nú að styrkja samtök sín til að takast á við verkefni framtíðarinnar. Næsta skrefið er að ná fram fullum og óskoruðum samningsrétti og bótum fyrir kauprán núverandi og fyrrverandi ríkisstjórna.

Þeir forystumenn sem ætla að verða í vegi fyrir þessu verða að víkja.

Framhald af forsíðu

hingað komið með flutningskostnaði. sköttum og álagningu olíufélaganna, heldur einnig hvernig "málgagn sósíalisma, verkalýðshreyfingar og þjóðfrelsis" framreiðir upplýsingar sínar til lesenda. Eða hvað ætli margir verkamenn kaupi bensínið í tonnum og það auk þess í dollurum? Auðvitað enginn. Ennfremur ruglar þetta samanburð á verði þessara þriggja vörutegunda. því bensín er eðlisléttast af þessum tegundum ( bensín 0,78 kg/lítr., gasolía 0,84 kg/lítr. og svartolía 0,925 kg/lítr.

Það sem þessi framsetning felur er það að verð á bensíni og gasolíu erlendis er það sama. En til þess að íslenska auðvaldið þurfi ekki að greiða þessa háu tolla og skatta af jafnnauðsynlegum hlutum til framleiðslunnar (olía á skip og flutningatæki) er látið vera að tolla og skattleggja gasolíu og svartolíu jafnhátt og bensín. En ef almenningi dettur í huga að notfæra sér þetta með því að hafa dísilvél í bílnum þá er innheimtur tollur með hinum háa þungaskatti.

Annað furðulegt við þessa töflu er verðið á svartolíunni. Ef gerður er samanburður á þessu verði og því sem er á þessari olíutegund á heimsmarkaði þá hlýtur að vera um að ræða svartolíu af lélegustu gerð en ekki þeirri sem seld er hér á landi. Verð þeirrar olíu er nefnilega miklu nær verði gasolíu. En um sannleiksgildi þessara talna er erfitt að dæma því að ekki liggja fyrir nákvæmar upplýsingar um þessa hlið viðskipta íslendinga og rússa.

Þessi tafla er því dæmigerð fyrir þær aðferðir sem notaðar eru til þess að fela þær auknu álögur sem nú eru lagðar á íslenskt verkafólk og að sama skapi þá auknu aðstoð sem auðherrar fá úr þeim sjóði.

| svartolía kr./lítr. | gasolía kr./lítr. | bensín kr./lítr. |
|---|---|---|
| 96.64 | 87.76 | 81.49 |
| 90.60 | 82.28 | 76.40 |
| 84.56 | 76.79 | 71.31 |
| 78.52 | 71.31 | 66.21 |
| 72.48 | 65.82 | 61.12 |
| 66.44 | 60.34 | 56.03 |
| 60.40 | 54.85 | 50.93 |
| 54.36 | 49.37 | 45.84 |
| 48.32 | 43.88 | 40.75 |
| 42.28 | 38.40 | 35.65 |
| 36.24 | 32.91 | 30.56 |
| 30.20 | 27.43 | 25.47 |
| 24.16 | 21.94 | 20.37 |




# Félags fundur MAÍ

Síðastliðinn laugardag var haldinn félagsfundur hjá MAÍ, menningartengslum Íslands og Albaníu. Var fundurinn afar fámennur og voru mættir aðeins 12 manns. Dagskrá fundarins var þannig, að formaður félagsins, Þorvaldur Þorvaldsson flutti ávarp og talaði um nauðsyn þess að efla félagið vegna þess að vinum Albaníu hefur fækkað að undanförnu. Næst var lesið úr sögu eftir þekktan Albanskan höfund sem hefur m.a. unnið til verðlauna í Frakklandi fyrir tirverk sín. Þar næst var kynning á starfsáætlun stjórnar. Þar kom m.a. fram að reynt verður að minnast 35 ára byltingarafmælis Albönsku alþýðunnar, sem verður 29. nóvember í haust, með því m.a. að gefa út vandað tir. Ennfremur er áætlunin aðreyna að fá aðkynna Albaníu í útvarpi. Að lokum kom svo rúsínan í pylsuendanum, en það var ávarp formanns um deilur Albana og Kínverja, sem var ein allsherjar upptalning um það hve Kínverjar eru orðnir heimsvaldasinnaðir og bandamenn heimsvaldasinna. Heldur skrýtinn félagsskapur eða hvað finnst mönnum.?

ÚRSLIT KOSNINGANNA.

Úrslitin í allsherjaratkvæðagreiðslunni eru skýr og ótvíræð. Alls sögðu rúmlega 6000 nei eða um 70%.

Samanlagt sögðu 1.659 nei í bæjarstarfsmannafélögum.

Atkvæðatölurnar eru birtar hé hér að neðan.

REYKJAVÍK: Á kjörskrá voru 2.226, atkvæði greiddu 1.222 eða 54,9%. Já sögðu 177 eða 14.4%, nei sögðu 1.029 eða 84.2%. Auðir og ógildir voru 16.

AKRANES: Já sögðu 43 eða 47.3%, nei sögðu 48 eða 52.7%

SAUÐÁRKRÓKUR: Já sögðu 22 eða 68.7%, nei sögðu 10 eða 31.3%.

AKUREYRI: 400 voru á kjörskrá, atkvæði greiddu 145 eða 36.3%. Já sagði 51 eða 35.2%, nei sögðu 88 eða 60.7%. Auðir og óg. 6.

HJÚKRUNARFRÆÐINGAR MEÐ SAMNINGA VIÐ AKUREYRI: 51 var á kjörskrá, atkvæði greiddu 29 eða 56.9%. Já sögðu 12 eða 41.1%, nei sögðu 17 eða 58.6%.

HÚSAVÍK: 77 voru á kjörskrá, atkvæði greiddu 38 eða 49.4%. Já sögðu 32 eða 82.2%, nei sögðu 3 eða 7.9%.

NESKAUPSTAÐUR: 44 á kjörskrá, 38 kusu eða 86.4%. Já sögðu 19 eða 50%, nei 18 eða 47.3%. Einn seðill auður.

ÍSAFJÖRÐUR: 73 á kjörskrá, 47 kusu eða 64%. Já sögðu 18 eða 38.3% en nei sögðu 28 eða 59.6%. Einn auður.

VESTMANNAEYJAR: 127 á kjörskrá, 71 kaus eða 55.9%. Já sögðu 19 eða 26.8%, nei sögðu 52 eða 73.2%.

OPINBERIR STARFSMENN Á SUÐURLANDI: 77 á kjörskrá, 40 kusu eða 51.9%. Já sögðu 16 eða 40%, nei sögðu 24 eða 60%.

KEFLAVÍK: 114 á kjörskrá, 68 eða 59.6% kusu. Já sögðu 24 eða 35.3%, nei sögðu 43 eða 63.2%. Einn seðill auður.

SIGLUFJÖRÐUR: Já sögðu 15 eða 46.9%, nei sögðu 17 eða 53.1%.

HAFNARFJÖRÐUR: 180 voru á kjörskrá en 130 kusu eða 72.1% Já sögðu 56 eða 43.1%, nei sögðu 73 eða 56.2%. Tveir auðir og óg.

SELTJARNARNES: 46 á kjörskrá, 37 eða 80.4% greiddu atkvæði. Já sögðu 16 eða 43.3%, nei sögðu 21 eða 56.7%.

GARÐABÆR: 70 á kjörskrá, atkvæði greiddu 44 eða 62.9%, Já sögðu 9 eða 20.5%, neð sögðu 34 eða 77.3%.

KÓPAVOGUR: 217 voru á kjörskrá, atkvæði greiddu 123 eða 56.7%. Já sögðu 50 eða 40.7%, nei sögðu 71 eða 57.7%. Tveir voru auðir.

MOSFELLSSVEIT: 40 voru á kjörskrá en 21 greiddi atkvæði eða 52.5%. Já sögðu 8 eða 38.1%, nei sögðu 13 eða 61.9%.

HJÚKRUNARFRÆÐINGAR SEM SEMJA VIÐ REYKJAVÍKURBORG: Já sagði 21 eða 21.9%, nei sögðu 70 eða 72.9%. Tveir auðir og og.

RÍKISSTARFSMENN: Á kjörskrá voru 10.216, atkvæði greiddu 6.728 eða 65.8%. Já sögðu 2.032 eða 30.2%, en nei sögðu 4.510 eða 67%. Auðir og og. 186.

# Fornfýsi félaga Bethums

Dufþakur

"Hver er sá andi sem fær útlending til þess að gera málstað kínverska þjóðfrelsisstríðsins að sínum án þess að hugsa um sjálfan sig? Það er andi alþjóðahyggjunnar og kommúnismans....Andi félaga Bethune, hin frábæra fórnfýsi fyrir aðra án þess að hugsa nokkurntíma um sjálfan sig, kom fram í takmarkalausri ábyrgðartilfinningu hans í stari og innilegri hjartahlýju í samskiptum hans við alla félaga og fólkið. Sérhver kommúnisti verður að læra af honum."

Þetta segir Maó Zedong um kanadíska lækninn Norman Bethune, en hann beitti þekkingu sinni og kunnáttu í læknavísindum til aðstoðar kínverska þjóðfrelsishernum í baráttunni gegn japönsku innrásarherjunum. Eins og sjá má af þessari tilvitnun í Maó hefur kínversk alþýða borið mikla virðingu fyrir honum og enn í dag er minningunni um hann haldið á lofti í Alþýðuæýðveldinu Kína.

Við sjónvarpsglápendur áttum þess kost að sjá mynd um þennan merka lækni. Kanadíska sjónvarpið lét gera þessa mynd með Donald Sutherland í aðalhlutverki. Sú mynd var raunar fjarri því að vera gallalaus.

Þeir sjónvarpsmyndagerðarmenn virtust hafa meiri áhuga á einkalífi Normans, ástum hans og síendurteknum hjónaskilnuðum og giftingum, fremur en fórnfúsu starfi hans í þágu alþýðunnar og kommúnismans.

Ekki skal hér lagður dómur á sannleiksgildi myndarinnar, til þess skortir þekkingu, en hinu er ekki að neita að um ástæðuna fyrir því að Norman gerðist slíkur hugsjónamaður fáum við fátt að vita. Það verður eiginlega að geta í eyðurnar. Sem dæmi má nefna, að í fyrsta skipti, sem Norman sækir fund hja Kommúnistaflokki Kanada, gerir hann grín að þessum alvörugefnu fundarmönnum og úthrópar Stalin sem fjöldamorðingja. En í næsta atriði á eftir heldur hann ræðu, þar sem hann lýsir ágæti þjóðskipulagsins í Sovétríkjunum og fádæma góðri skipulagningu heilbrigðisþjónustunnar þar í landi.

Atriðin, sem sýna störf á þágu kínverska þjóðfrelsisherins, voru helsti snubbótt, en kannski var það eins gott, því þau voru svo fjarri því að vera ´ekta´- minntu einna helst á einfaldar stúdíóupptökur í hollývúddsku kvikmyndaveri.

Hugsjónamenn á borð við Norman Bethune eru ekki á hverju strái. Það má segja, að hér eigi við, að margir séu kallaðir en fáir útvaldir. Maó formaður leggur einmitt áherslu á það í eftirmælum sínum um Bethune, að það sem hafi einkennt hann væri óeigingirni og takmarkalaus fórnfýsi. Hvaða kommúnisti er það í þessum svonefnda velferðarheimi, sem er reiðubúinn til þess að láta eiginhagsmunina lönd og leið í þágu málstaðarins?

Grein sú, sem vitnað var í hér í upphafi, var skrifuð af Maó til minningar um Norman Bethune, en henni lýkur á þessum orðum: "Af honum verðum vér öll að læra í anda hinnar algeru óeigingirni. Hver og einn getur orðið mjög nýtur maður fyrir fólkið, ef hann lifir og starfar í þeim anda. Menn geta haft misjafnlega mikla hæfileika, en hver sá, sem lifir í þessum anda, er göfugur og flekklaus, siðferðilega heilsteyptur og hafinn yfir lágkúruleg áhugamal. Slíkur maður er jafnan verðmætur fyrir fólkið."

# Öflugt Palestínustarf í Noregi

Blaðamenn Stéttabaráttunnar voru á ferð í Noregi í byrjun apríl og ræddu þá við nokkra af forystumönnum Palestínafronten í Norge, Við báðum þá, um að segja okkur í stuttu máli frá stofnun og vexti Palestínuhreyfingarinnar í Noregi og helstu verkefnum sem hún ynni að í dag.

1970-1976.

Palestínustarfið í Noregi hófst upp úr 1970 með samstarfi einstaklinga úr ýmsum



Björg

samtökum vinstrimanna. Hopurinn kallaði sig Palestina Komitéen og skipulagði útbreiðslu á málstað palestínuaraba og ýmsar fjöldaaðgerðir til að mótmæla yfirgangi síonista og heimsvaldasinna í Palestínu. Til að byrja með gekk starfið árekstralítið, en þegar frá leið fór að bera á skoðanaágreiningi sem síðan átti eftir að leiða til klofnings nefndarinnar árið 1976.

Það kom í ljós þegar starf nefndarinnar komst á rekspöl að maóistasamtökin AKPm-l ætluðu sér að nota nefndina í flokksbyggingarstarfi sínu. Þegar á leið hófu meðlimir AKP í nefndinni að sýna yfirgang og reka áróður fyrir nýrri línu sem var í andstöðu við stefnu annarra nefndarmanna. Þetta leiddi til þess að margir einstaklingar sem ekki voru skipulagðir í nefndinni af pólitiskum samtökum hrökkluðust úr starfi AKP, sem hafði meirihluta í nefndinni, þvingaði síðan fram nýjan stefnugrundvöll á landsþinginu 1976 og þá gengu þeir sem eftir voru í nefndinni utan AKP úr henni.

Aðalágreiningurinn stóð um það hvort leggja ætti Sovétríkin og Bandaríkin að jöfnu sem óvini palestínsku þjóðarinnar og hvort taka ætti upp baráttu gegn þeim arabaríkjum sem væru andstæð PLO.

AKP vildi taka inn í grundvöllinn baráttu gegn Sovétríkjunum, en aftur á móti ekki minnast á baráttu gegn afturhaldssömum í arabaríkjunum (t.d. í Jórdaníu). Þessi afstaða AKP gekk þvert á afstöðu PLO sem höfðu þegar áður en hún var samþykkt 1976 lýst yfir andstöðu sinni.

Ný samtök stofnuð.

Við sem lengst höfðum þraukað innan Palestina Komitéen höfðum þegar eftir klofninginn samband við skrifstofu PLO í Svíþjóð og ákváðum síðan að stofna Palestinafronten á gamla grundvelli Palestina Komitéen.

Palestinafronten eru samtök sem byggja á einstaklingsaðild og eru óháð öllum pólitiskum flokkum. Megininntak pólitisks grundvallar samtakanna er að veita palestinskri alþýðu fullan stuðning í baráttu hennar gegn síonisma, heimsvaldastefnu og arabiskum afturhaldsöflum.

Samtökin leggja eftirtalin víg-



Kjell Bygstad

orð til grundvallar starfi sínu:

- Styðjum þjóðlega frelsisbaráttu palestinskrar alþýðu á hennar eigin skilyrðum.
- Berjumst fyrir frjálsri og lýðræðislegri Palestínu sem veitir öllum hópum jöfn réttindi án tillits til siða, menningar eða trúar.
- Berjumst gegn síoniska ríkinu Ísrael. bandarisku heimsvaldastefnunni og óvinum palestinsku þjóðarinnar í arabaheiminum.
- Gegn tveggjaríkjalausn.
- Styðjum baráttuna fyrir frelsun allrar Palestínu.

Í upphafi ætluðum við okkur að nema um palestínuspurninguna í ca eitt ár áður en við færum út í raunverulegt útbreiðslu- og áróðursstarf. En aðstæðurnar höguðu því þannig að áður en



Odd Kristian Reme
Form. Palestína fronten.

við vissum af vorum við komin á kaf í blaðaútgáfu og fundahöld.

Við vorum alveg eignalaus því allt fjármagn og tæki höfðu orðið eftir hjá Palestinakomitéen. Það var því okkar fyrsta verkefni að útvega tæki til útgáfunnar og safna peningum. Þegar í apríl 1976 kom út fyrsta eintakið af blaði okkar, Palestina Nytt, þá fjölritað.

Öflugt starf í dag.

Palestinafronten var fyrst fyrir alvöru þekktur fyrir mikla og vel heppnaða söfnun, Stríðshjálp til Líbanon. Það fé sem þá safnaðist (ca 10 millj. ísl.) var afhent Rauða hálfmánanum í Palestínu. (Rauði hálfmáninn er stofnun hliðstæð Rauða krossinum, aths. STB). Söfnunin hlaut víðtækna pólitískan stuðning og mikið blaðaumtal og er einn stærsti sigur and-síonískra afla í Noregi. Stríðshjálp til Líbanon var fylgt eftir með Samstaða með Palestínu sem var aðgerð til stuðnings palestínuaröbum sem búa á herteknu svæðunum. Nú er til dæmis verið að safna fé til að byggja samkomuhús í þorpinu Deiral-Asad í Galíleu. Einnig höfum við nýlega byrjað að senda lækna og hjúkrunarfólk til búða flóttamanna palestínumanna í Líbanon.

Í dag leggjum við höfuðáherslu á að styrkja og efla samstöðustarfið. Til þess þurfum við bæði að auka starfið og stækka samtökin. Við teljum mikilvægt í þessu sambandi að fjölga bæði virkum félögum og stuðningsmönnum. Einnig er nauðsynlegt að fjölga áskrifendur að Palestina Nytt sem kemur nú út tíu sinnum á ári. Við leggjum mikla áherslu á góð tengsl við fjöldahreyfingar, til dæmis verkalýðsfélögin, kvennasamtök, æskulýðssamtök og stúdentasamtök. Þannig náum við betri árangri í að breiða út málstað palestínumanna.

Sundrungin í Palestínustarfinu er mjög skaðleg og þess vegna leggjum við áherslu á samstarf við Palestinakomitéen í einstökum málum. Þetta samstarf hefur átt sér stað þrisvar og með misjöfnum árangri. Palestinakomitéen hefur haft í frammi stöðugan áróður gegn okkur, kallað okkur ísraelsvini, útsendara sósíalheimsvaldastefnunnar, handbendi Kissingers o.s.frv. Við höfum ekki svarað þessum lágkúrulegu ásökunum þeirra og teljum svona umræðu ekki þjóna þeim málstað sem við berjumst fyrir.

Við munum halda áfram að reyna að starfa með Palestinakomitéen og vonumst til að samstarfið megi bera meiri árangur í framtíðinni.

## ÚR BARÁTTUNNI

Svavar og olíufélögin

Svavar Gestsson vill ennþá þjóðnýta olíufélögin að því er fram kom í Kastljósi á föstudaginn var. Að vísu er hann í svo vondri ríkisstjórn að engin leið er til þess að málið nái fram að ganga. Þetta er dæmigert fyrir Alþýðubandalagspólitíkin, að veifa umbótunum, nota stóru orðin, en gera ekki neitt. Menn hafa ugglaust tekið eftir því að þjóðnýtingin hans Svavars er dálítið skrítin.

Gróði olíufélaganna er mjög mikill og veldur því að sjálfsögðu að olíuverðið er hærra en ella. Eðlilegast væri að lækka olíuverðið.

En á það vill Svavar ekki heyra minnst. Hann vill einungis að ríkið taki við olíugróðanum. Þetta er hjá honum spurningin um það hvort ríkið, væntanlega undir stjórn Alþýðubandalagsmanna, eigi að hirða gróðann eða hvort einstakir kapitalistar eigi að ráðstafa honum að eigin geðþótta.

Hvernig sem allt snýst og veltist er það þó alltaf almenningur sem borgar þennan gróða.

HÁTEKJUSKATTUR OG RIDDARAR ÖMURLEIKANS.

Kratarnir í Alþýðuflokknum láta ekki að sér hæða. Þeim er betur ljóst en öðrum þingmönnum að atvinnuöryggi þeirra er lítið ef litið er til fylgisbreytingarinnar í síðustu kosningum. Þess vegna reyna þeir allt hvað þeir geta til að slá sig til riddara í augum almennings.

Nýjasta nýtt hjá þeim er að reyna að hagnast á óánægju fólks vegna óréttlátrar tekjuskiptingar. Þeir vilja fá 85% tekjuskatt á tekjur sem fara yfir eina milljón á mánuði.

En þrátt fyrir þessa tillögu þá er eftir sem áður aðalatriðið í skattastefnu Alþýðuflokksins að afnema tekjuskatt.

JARÐAFÖR.

Frést hefur að búið sé að leggja KSML(b) niður. Lítið hefur borið á samtökum þessum á síðustu á undanförnum árum, sem störfuðu þó af nokkrum krafti, rétt eftir að þeir klufu sig út úr KSML á sínum tíma. En svo fór að þeir gengu á hönd einangrunarstefnunnar og hófu þar með að grafa sína eigin gröf og voru nokkuð fljótir að því. Nú er svo komið að jarðarförin hefur farið fram í kyrrþey að viðstöddum aðeins nánustu aðstandendum. Blóm voru afþökkuð en þeim sem vildu minnast hinna látnu er bent á Menningartengsl Albaníu og Íslands.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
18. tbl. 8. árg. 8.5.1979



STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.

# Harðir bardagar í Kamputseu

Víetnamski herinn hefur hafið mikla sókn gegn skæruliðum Pol Pot stjórnarinnar í Kampútseu. Talið er víetnömum muni ekki takast að ljúka þessari sókn áður en regntíminn fer í hönd.

Þúsundir flóttamanna hafa flúið frá Kampútseu til Tælands. Meirihluti þessara flóttamanna er bændur sem flýja stríðið og framsókn víetnamska innrásarhersins.

Að sögn tælenskra yfirvalda flúðu milli 50 og 60 þúsund yfir landamærin í lok apríl. Stórsókn víetnamska hersins hafði rekið fólkið áfram og króað það inni þannig að eina undankomuleiðin var yfir landamærin.

Í hópi flóttamannanna voru um það bil 8000 hermenn úr her stjórnar Pol Pots. Skæruliðar þessir munu fara suður eftir landamærunum tælandsmegin og síðan til baka til Kampútseu og sameinast þar meginhópi skæruliðanna.

Fólkið var rekið.

Víetnamski herinn hefur rekið fólk yfir landamærin.

Herinn hélt uppi linnulausri skothríð á flóttamennina eftir að þeir voru komnir til Tælands

Tælenska stjórnin hefur reynt að fá slóttamennina til að snúa aftur til síns heima en gengið erfiðlega af eðlilegum ástæðum.

Leppstjórnin í Phnom Penh hefur hins vegar ásakað stjórn Tælands fyrir stuðning við skæruliða stjórnar Pol Pots.

Rétt er að hafa í huga að Tæland er einmitt eitt landanna í sambandsríki Indókína sem víetnamar hafa viljað stofna. Stjórn Pol Pots hefur líka oft bent á það að víetnamar muni ekki láta staðar numið í Kampútseu heldur ráðast einnig inn í Tæland.

Ásakanir leppanna í Phnom Penh er ekki hægt að skoða sem annað en undirbúning undir hugsanlega innrás sem yrði þá réttlætt með þessu.



Rússar og kúbanir í víetnamska innrásarliðinu.

Að minnsta kosti 150 þúsund víetnamskir hermenn eru nú í Kampútseu.

En það eru ekki eingöngu víetnamar þar. Rússneskir og kúbanskir hermenn og hernaðarráðgjafar taka líka þátt í innrásinni.

Nýlega handtóku skæruliðarnir milli 20 og 30 rússa og kúbani í Kampútseu. Það var í bardögum við borgina Battambang sem er næststærsta borg landsins.

Ekki hefur verið sagt frá því hve margir fanganna séu rússar og hve margir kúbanir. Skæruliðarnir hafa ströng fyrirmæli um að þessir fangar séu vel geymdir svo að ekkert komi fyrir þá.

# Klofningur?

Mikil óánægja er nú meðal alþýðubandalagsmanna vegna stjórnarsamstarfsins og frammistöðu forystumannanna í kjarabaráttunni og hinni daglegu baráttu. Hefur þessi óánægja komið fram á ýmsan hátt. Ýmist hafa félagar AB sagt sig úr flokknum eða sagt af sér trúnaðarstöðum eins og til dæmis það sem gerðist í Kópavogi.

Aukin óánægja í Dagsbrún.

Mikillar óánægju er nú farið að gæta innan Dagsbrúnar, sérstaklega á höfninni þar sem harðasti kjarni og stolt Dagsbrúnar hefur verið um áraraðir

Nú nýlega hefur fjórtán eldri verkamönnum verið sagt upp hjá Eimskip og hafa flestir allt að 30-40 ára starf að baki. Það er því skiljanlegt að manni verði næstum flökurt við að hugsa um orð Óttars Möllers úr sjónvarpinu þegar hann talaði um "verkamennina mína og sjómennina mína".

Guðmundur J., einn helsti talsmaður Óttars Möllers við höfnina, lofaði að fá lengri uppsagnarfrest fyrir þessa verkamenn en sveik það og fór í orlof til Svíþjóðar sér til heilsubótar.

Öryggismál hafa verið til umræðu manna á meðal vegna hinna hörmulegu dauðaslysa sem sem hafa átt sér stað að undaförnu við höfnina. Loforðin um úrbætur hafa verið svikin eða svæfð af nefnd sem Guðmundur sjálfur er í.

Halldór Björnsson ritari Dagsbrúnar er þó sú fígúra sem er verst lðinn meðal Dagsbrúnarmanna vegna hinna svívirðilegu vinnubragða sem hann hefur staðið fyrir, meðal annars reyndi hann að útvega sér ódýra steyou í einbýlishúsið sitt í krafti starfs síns. Eitt sinn þegar verkamenn þurftu að ná tali af honum var hann í sundi í vinnutíma sínum. Óhætt er að fullyrða að Gvendur J. og Eðvarð eru aðeins hálsdrættingar við hann í svívirðilegum vinnubrögðum.

Allt þetta hefur orðið til þess að allir trúnaðarmenn Dagsbrúnar við höfnina hafa sagt af sér. Þeir voru flestir alþýðubandalagsmenn en eru það væntanlega ekki lengur.

**'Askrift** Ég undirrit aður/uð óska eftir að gerast áskrifandi að STÉTTABARÁTTUNNI.

Nafn: ______________________________

Heimili: ______________________________

______________________________

Sendist til: STÉTTABARÁTTAN
Pósthólf 1357
121 Reykjavík

# Ummæli ráðherra

Tómas Árnason lýsir því yfir að ríkisstjórnin hafi áætlað að fa forystu verkalýðsfélaganna til að samþykkja framlengingu samninga til 1. desember nk.

Tómas segir einnig að þessi stefna ríkisstjórnarinnar hafi veðið skipbrot með úrslitum allsherjaratkvæðagreiðslunnar.

Hugmyndin var sem sagt sú opinbera starfsmenn fyrst samþykkja afnám 3% grunnkaupshækkunar og síðan að framlengja samninga til 1. desember.

Sósíalistinn og vinur lágkaunafólksins, Svavar Gestsson, er þó kokhraustari. Hann vill gefa 3% kauphækkun á alla línuna en síðan setja þak á vísitölubætur og kauphækkanir til launþega með kaup yfir tvöföldum verkamannalaunum auk þess að "lagfæra" vísitölukerfið.

Þetta þýðir auvitað stórkostlega kjaraskerðingu allra launþegahópa, þótt Svavar þykist vera sérstakur málsvari þeirra lægst launuðu.

Þriðji ráðherrann, Steingrímur Hermannsson, hefur ekki dregið dul á þá skoðun sína að kaup eigi ekki að hækka neitt á þessu ári.

Fjórði ráðherrann, Magnús Magnússon, hótar að banna öll verkföll sem koma og er mótfallin kauphækkunum.

Atvinnurekendur taka síðan undir með þessum nýju forsöngvurum og neita að ræða við launþega um launahækkanir.

Á meðan hækkar verð vöru og þjónustu upp úr öllu valdi og ríkisstjórnin gengur á undan í því

Frá áramótum hefur rafmagn hækkað um 54.1%, heitt vatn um 32.2%, fargjöld með SVR um 50%, gjöld til pósts og síma um 34.5% og afnotagjöld útvarps og sjónvarps um 15-17%. Auk þessa má nefna olíuvershækkanir, hækkun á heildsölu- og smásöluálagningu, 3% innflutningsgjald til að "vernda íslenskan iðnað" o.s.frv.

Þessi ríkisstjórn er greinilega enginn eftirbátur þeirrar fyrrverandi í að lækka kaupið til að geta aukið gróða auðherra.



Tómas Árnason



Svavar Gestsson



Steingrímur Hermannsson



Magnús H Magnússon